Deild hins íslenzka bókmentafèlags í Kaupmannahöfn hefir ásett sèr að láta prenta nýa og nákvæma lýsíng á Íslandi, og hefir falið oss á hendur fyrst um sinn að safna til hennar, og þareð fèlagið ekki hefir efni á að senda menn gagngjört út til Íslands, til að ferðast um allt land, hefir það falið oss á hendur að skrifast á við þá menn úti á Íslandi, sem vèr vonuðum fróðleiks af um öll þau efni sem bókin á að skíra frá, og eingin nákvæm skilríki eru fáanlig um hèr í borginni.

Vèr höfum nú sendt öllum þeim brèf sem vèr treystum fremst til að muni vilja og geta stoðað þetta fyrirtæki, og sèrílagi öllum prestum og próföstum á landinu; leyfum vèr oss að senda yður það brèf og spurníngar til sýnis; en um sumt er þar óspurt, sem vèr getum hvörgi fengið nema hjá yður, og leyfum vèr oss því að leita yðar um úrlausn spurnínga þeirra sem hèr fylgja, og viðvíkja sýslu og sveita takmörkum o. s. frv.

Vèr erum sannfærðir um, að þèr eins vel og vèr sjáið, hvörsu þarflig og fróðlig að slík bók mætti verða, ef hún væri vel af hendi leyst, og undir eins, að allir kostir hennar sem mest á ríður eru komnir undir því, að allir stoði fèlagið, hvörr í sinni röð, til þessa vanda verks; vèr vonum því staðfastliga að þèr verðið vel við bón vorri, og hvetið aðra til ens sama, enda leggið á góð ráð þar sem þurfa þækti, svo vèr fengjum sem fróðligasta og nákvæmligasta skírslu á öllu, spurðu sem óspurðu, smáu sem stóru; skulum vèr ekki spara neitt ómak til þess að þær skírslur verði notaðar sem bezt, svo bókin gæti orðið fèlagi voru og fósturjörð til gagns og sóma, og vinum þeirra innlendum sem útlendum til fróðleiks og skemtunar.

Í umboði hins íslenzka bókmentafèlags deildar
Kaupmannahöfn þann 30ta d. Apríl-mán. 1839.

**Finnur Magnússon. Jónas Hallgrímsson Konráð Gjíslason.**
**Brynjólfur Pjetursson. Jón Sigurðsson.**

Til

**Herra** J. N. Abel
Sýslumanni í Vestmannaeyjum.

1. **H**vör eru takmörk Vestmannaeya–sýslu á alla vegu?
2. Hvör eru þar bygðarlög, svosem hèröð, sveitir, dalir, hverfi o. s. frv. eptir röð, og hvör eru takmörk þeirra?
3. Eru takmörk sýslunnar hin sömu og prófastsdæmisins, eður hvörju munar?
4. Hvörjir eru hreppar í sýslunni, hvar eru þíngstaðir þeirra, og hvör eru takmörk sèrhvörs hrepps á alla vegu?
5. Eru þar nokkrar jarðir ætlaðar sýslumönnum og læknum til ábúðar, og hvörjar, ef eru?
6. Um vegu: Hvar liggja alfaravegir um sýsluna, og úr henni í aðrar sýslur á alla vegu? hvörsu lángir eru fjallvegirnir kallaðir? hvörjar eru þar vegabætur: ruðníngar, brýr, vörður, sæluhús, o. s. frv.? hvörjar eru þar torfærur og hvar á alfaravegum, hvörnig er þeim varið, og hvört mundi verða úr þeim bætt með tilkostnaði, og hve miklum, eptir ágizkun?
7. Hvörnig er búníngur alþýðu (kalla og kvenna) í sýslunni? breytist hann, og á hvörn hátt? að hvörju leiti er hann fremur, og að hvörju leiti síður, enn í öðrum hèröðum lanzins, sem þèr þekkið til.
8. Hvörsu margir sjóróðrarmenn sækja þar að jafnaði fiskiver í aðrar sýslur á vetrum og vorum, og hvört?
9. Hvörsu há var tíundin í hvörjum hrepp, hvörsu margir skattbændur, og hve mikið aukaútsvar, allt fyrir 10 árin seinustu, frá 1830?
10. Hvörsu stórir voru hreppa–sjóðirnir fyrir 10 árum, og hvörsu stórir eru þeir nú?
11. Hvörsu margir sveitar ómagar voru í hvörjum hrepp fyrir 10 árum, og hvörsu margir eru þeir nú?

---

12. Um veðráttufar og loptslag: Vèr æskjum mikilega yður þóknaðist að semja handa oss almenna lýsíngu á því í yðar sýslu, og hafa þá, eins og verður, hliðsjón af prestaspurníngunum um þetta efni (22–29 spurn.)?

---